# Sannur gæfumadur.

Hversu farsæll sá madur sé, sem Jesúm hefur fundid, þad sýnir glegglega æfisaga manns nokkurs, ad nafni Vilhjálmur Kellý, sem heima átti í litlu þorpi, á eyunni Mon, sem liggur á millum Einglands og Irlands. Í barndómi sínum hafdi Kellý lært ad lesa í skóla einum þar í þorpinu. Módir hans hafdi og kostad nokkru ómaki til ad uppfræda hann, og af því pilturinn var gáfadur, hafdi hann tekid framförum öllum vonum betur. Hann lærdi skraddaraidn; en eptir þad lærdómsár hans voru úti, lagdi hann af stad, og ferdadist, sem skraddarafélagi, gegnum mikinn part Einglands. En sem hann kom heim aptur til átthaga sinna, þóttist hann vera ordinn einn af þeim upplýstu, og áleit þad minkun, ad fara til kirkju, edur ad lesa í bibliunni. Þar á móti hélt hann sér helst til léttúdugra og órádvandra lagsbrædra, er hann lét afvegaleida sig til allskonar saurugslegs lifnadar. Nú ætladi skraddaraidnin ekki ad nægja honum framar til hans miklu býlifisútgjalda, sem urdu med mörgu móti, eptir sem girndir hans heimtudu; þar fyrir tók hann fyrir sig fiskiveidar, því sá bjargrædisvegur var þar á eyunni Mon mjög ábatasamur. Hann vard og brátt svo heppinn, ad hann bar af ödrum í þessu, og ávann sér mikla peninga; en þess meira gaf hann sig vid spilum og áflogum, gekk á hverri nóttu á veitingahús, og svalladi þar

sífelt ásamt ødrum drykkjurútum. Mitt í þessum óreglulega lifnadi fann hann þó opt til sterkra bendínga í samvitskunni, svo hann eptir umvendun sína, er seinna verdur frásagt, taladi aldrei ødruvísi enn med djúpum trega um þennan part æfi sinnar, undireins og hann lofadi Guds óútsegjanlega þolyndi fyrir þad, ad hann ekki hefdi kallad sig burtu, mitt í syndum sínum. Jafnvel þó hann nú opt ásetti sér, ad betra sig, gat hann samt ekki sigrad sína sterku tilhneigíngu til drykkjuskapar, og þrátt fyrir allar bendíngar samvitskunnar, var hann, eptir sem ádur, forsprakki alls ills félagskapar þar á eyunni, þángad til eingiun ærukær madur vildi framar eiga neitt vid hann ad skipta. Allt af var hann í skuldum, og um sídir vildi einginn madur lána honum neitt, því þad var ekki sjáanlegt, ad menn gætu nokkurn tíma feingid neitt hjá honum aptur. Þegar hann nú einn dag gat ekki framar borgad fædi sitt, þá greip veitíngakonan af honum hattinn, og rak hann svo med smánarordum út úr húsinu. Þakinn smán og spotti, flýtti hann sér í gegnum gøtuna, og heyrdi hædnishlátur gøtustrákanna á eptir sér. Þetta atvik hafdi djúp og tilfinnanleg áhrif á hjarta hans, og upp frá þeim degi tók hann, af fullri alvøru, fyrir Gudi ad idrast síns syndsamlega lifnadar. Eins og hinn glatadi sonur kom hann nú til sjálfs sín mitt í því hann var sorgbitinn yfir syndum sínum, og hjarta hans vard gagntekid af sterkri laungun til ad geta af þeim látid; en af því hann af reynslunni ádur þekkti vanmátt sinn, til ad geta framkvæmt sinn góda ásetníng, þá leitadi hann sér nú, — sem hann ekki hafdi ádur gjørt, — med sundurknosudu og ángurbitnu hjarta,

hjálpar af hæðum frá Guði. Hann snéri sér því til Jesú Krists, sem frelsara allra vesællra syndara, og með fullri trú á hans verðskuldan og blóðugu fórnfæringu, tók hann þann staðfasta og hátíðlega ásetning fyrir sig, að láta af öllum vitanlegum syndum, og byrja nýtt líferni. Vegna þess hann nú tekið hafði áform þetta fyrir sig, mitt í trúnni á Guðs almætti og á síns endurlausnara náð, af hverjum hann vænti sér kraptar og aðstoðar til að vilja og framkvæma (Filipp. 2, 13) — svo varð hann fyrir hans fulltingi svo styrktur, að hann gat stöðugt haldið áfram sínu góða áformi. Upp frá þessum tíma, allt til enda sinna lífdaga, sem var meir enn 40 ára tími, — dreypti hann aldrei vorum í neinn áfeingan drykk. Svo máttug er trúin! Fyrir hana hafa þeir gömlu vitnisburðinn feingið (Ebr. 11, 39), og fyrir hana sigraði Vilhjálmur Kellý eina þá skelfileguslu af öllum tilhneigingum, og hefur því meðtekið fyrirheit Guðs, nefnil.: „hreint hjarta og nýan, vissan og stöðugan anda“ (Esek. 11, 19 o. s. fr.) „En án trúarinnar er ómögulegt Guði að þóknast, því sá sem til Guðs vill koma, hann hlýtur fyrst að trúa því að Guð sé til, og þarnæst að hann endurgjaldi þeim sem hans leita“ (Ebr. 11, 6). En að Kellý væri það full alvara Guðs að leita, sýndi hann rok til með því, að hann eptir þetta hreint yfirgaf allan félagskap brádvandra; svo þó hann í fyrstu væri af sínum fyrri vinum allavega heimsóktur, tókst þeim samt aldrei að telja hann til þess, að gefa sig í samfélag með þeim aptur. Loksins leiddist þeim að reyna til þess við hann leingur, yfirgáfu hann því, og létu hann óhindraðan gánga fram á sínum nýa vegi. Nú tók

hann til aptur ad erfida kostgæfilega í idn sinni, og Gud blessadi svo idni hans, ad hann innan skamms vard fær til ad lúka allar sínar skuldir. Þannig vard nú, fyrir Guds nád, úr Vilhjálmi Kellý oldúngis nýr madur; sidferdi hans, lifnadarmáti, ánægjusemdir og idkanir voru nú ordnar allt ødruvísi enn ádur. Þær stundir, sem hann ádur eytt hafdi á veitinga-húsum, brúkadi hann hann nú til vinnu, ellegar til ad lesa og hugleida Guds ord; og skipti hann øllum tíma sínum milli þessara tvennu athafna. Hann badst þessvegna opt og sífeldlega fyrir í einrúmi, og medan hann sat ad vinnu, hóf hann opt í kyrdum, med heimuglegri bænagjørd, hjarta sitt til lifanda Guds. Mørgum einverutímum sínum, — sem hann ádur, fyrir leidinda sakir, hafdi opt ekki vitad hvernig hann skyldi stytta, — eyddi hann nú med sálmum, lofsaungvum og andlegum kvædum, eins og postulinn býdur (Kól. 3, 16.). Á þennan hátt var Guds ord hans daglega sálarfæda; og þad var því hans ánægju-fyllsta idja, ad lesa í ritníngunni, úr hverri hann lærdi margar greinir útan bókar, og hugleiddi þær undir sínu daglega erfidi; svo ad á øllum tímum og í øllum stødum var þad blessada Guds ord honum nálægt, og óaflátanlega líka sem hrópadi til hans á þennan hátt: „þetta er vegurinn, gakktu á honum støduglega, en hvorki til hægri né vinstri handar!" (Es. 30, 21).

Þar fyrir utan lagdi Vilhjálmur sig kostgæfilega eptir túngumáli því, sem talad var á eyunni Mon, og vard loksins svo vel ad sér í því, ad hann gat gefid framandi mønnum uppfrædíngu í því. Fyrir þetta vard hann fljótt nafnkogadur, og enskum manni,

sem þast hafdi hann fyrir kennara í því túngumáli, eigum vér þessa frásøgu um lifnad þessa merkilega manns ad þakka. Þessi sami madur viðurkennir í frásøgu sinni, ad hann hafi ætíd med innilegri þakklátsemi til þeirrar uppfrædingar, sem hann hjá honum fékk, ekki ad eins vegna túngumáls þessa, heldur og svo vegna þess, hversu þessi gudrækni madur hafi leitt sig inní réttan skilníng Guds lifandi ords, mitt í því ad eptirdæmi hans hafi, fyrir krapt Guds nádar, haft stóra verkun á hjarta sitt, þar hún gjört hafdi, þann óráðvandasta syndara ráðvandan, þann ólærda vitran, og þann fátæka sannfærsælan. Því svo látandi vitnisburd gefur hinn enski madur honum: „Hegdan hans var svo stillileg, tal hans svo ánægjusamt, og allt hans vidmót svo ástúdlegt, ad umgeingni hans olli sérhverjum hjartakristnum manni sannarlegrar gledi; og enda þeir er voru gagnstædir honum ad hugarfari, hlutu ad viðurkenna, ad breytni hans leiddi þeim fyrir sjónir, á frábæran hátt, meiníngu þessara postulans orda: „hvad ástsamlegt er, hvad vel sómir, hugsid þar eptir!“ (Filipp. 4, 8).

A sídustu árum lífs síns þjádist hann mjøg af lidaverkjum og sinadrætti í bakinu, svo honum vard ómøgulegt, ad vera stødugt vid vinnu. Dálitid af peníngum, sem hann hafdi dregid saman, var allt þad, sem hann hafdi nú til uppheldis sér, en þetta nægdi naumast til ad útvega þad allra naudsýnlegasta, sem hann þurfti á ad lifa. Af þessum litlu munum lifdi hann, fullur þakklætis vid Gud, og ávallt gladvær og ánægdur. Fyrir sína óaflátanlegu umgeingni med Gudi veittist honum sú nád, ad hvernig sem á lífshøgum hans stód, gat hann huggad sig vid

þann rétt og þá von, sem hann hafdi til himnaríkis, hvers andlegur borgari hann þegar var ordinn, og þessvegna gat ekkert jardneskt ordid honum framar til ángurs. Þegar adrir voru ad kvarta um bágar tídir, harda vedráttu, ávartarleysi af jördunni, edur annad því um líkt, þá var hann ætíd vanur ad benda mönnum til þeirra hluta, sem sýndu, ad menn ættu og ad lofa Gud og þakka honum fyrir slíkar rádstafanir, og bætti jafnan þessum ordum vid: „allt kemur frá honum, sem er gjafari allra gódra og fullkominna gjafa!“

Fædi hans var vanalega braud og vatn; stundum keypti hann mjólk fyrir fáeina skildínga, líka endur og sinnum silúng; en mikid sjaldan fékk hann af sér ad neyta kjöts, því honum þótti þad of dýrt. Í leigu eptir húskorn þad, sem hann bjó í, galt hann árlega hér um bil 4 gyllini, og má af því sjá, ad þad hefur ei næsta hagkvæmt verid til íbúdar. Hann hafdi tekid sér þá ófrávíkjanlegu reglu, aldrei ad taka neitt til láns, og med þessari kristilegu forsjálni hélt hann hjarta sínu stödugLega frjálsu frá jardneskri hugsýki, jafnvel mitt í hinni þýngstu útvortis fátækt. Á þennan hátt eyddi hann mörgum árum lífs síns, og öll útgjöld hans, eptir nákvæmasta reikníngi, voru árlega ekki meira enn svo sem fimm karólíndalir, sem hljóp á bord vid 61 þýska skildínga um vikuna. Þessara kríngumstædna er hér getid, til ad sýna, hversu sannkristinn madur, þegar hann lagar sig viturlega eptir þeim kríngumstædum, sem Gud hefur sett hann í, og lætur sér, eptir postulans áminníngu, nægja, þegar hann hefur fædi og klædi, hversu hann — segi eg — í því ástandi, sem

flestir mundu kalla hina mestu fátækt, getur þó lifað rólegur og ánægður í þessum heimi, án þess að kenna neinnar annarar beiskju, enn þeirrar, sem syndirnar og spilling þessarar veraldar láta alla sanna Jesú Krists eptirfylgendur hljóta að reyna, hverja beiskju þó að sú innvortis huggan Guðs anda, og trúarfull tilhlökkun þess tíma, þegar dauði og synd ekki framar til verða, yfirgnæfa í mesta máta. Guð gæfi að allir vér gætum þvílíkrar huggunar notið!

Því meir sem Vilhjálmur Kellý nálgaðist endalok æfi sinnar, því meir sáu menn guðhræðslu hans fara í vöxt, svo mikil sem hún þó hafði áður verið. Tal hans og allar hans athafnir sýndu það, að andi hans hafði sífelda umgeingni með Guði, og að eilífur friður í ríki dýrðarinnar stóð honum fastlega fyrir augum. Tveim árum áður enn hann deyði, var öll hans litla peníngaeign uppgeingin, og sjálfur gat hann nú ekki unnið, vegna í vöxt farandi veikleika, svo nú sýndist sem hann, þrátt fyrir alla sína kristilegu sparsemi, hlyti að mæta hinu stærsta volæði. En Drottinn yfirgefur aldrei sína, og hver sem á hann treystir, hefur öruggt hæli á tíma neyðarinnar. Hans staka guðrækni var hljóðbær orðin; því það er eðli þess sanna kristindóms, að þeir skæru geislar þess guðlega ljóss, sem fyrir Guðs náð kveiktir eru í hjarta mannsins, útbreiða frá sér, á allar síður, sinn blíða ljóma og birtu. Rík frú, sem lángan tíma hafði legið í þúngum sjúkdómi, heyrði um þennan mann getið, og æskti því innilega að sjá hann, og tala við hann. Hann kom því til hennar ekki að eins einu sinni, heldur opt, og komur hans voru þeirri sjúku konu til mikillar huggunar. Hún hrósaði opt með þakklætisfullri tilfinníngu

því óútseganlega gagni, sem hún fyrir sína ódaudlegu sálu hefdi haft af því, ad tala vid þennan rádvanda og gudhrædda mann. Nú var þad mjøg náttúrlegt, ad kona þessi áliti sig, fyrir þessa andlegu velgjørd, sem hann veitti henni, skylduga ad hjálpa honum í hans líkamlegu naudþurftum; og svoleidis bar nú Drottinn umhyggju fyrir sínum trúa þjóni, er áleit sérhverja gjøf, sem hann fékk frá konu þessari, rétt sem beinlínis komna úr Guds hendi, og þádi hana því med hjartanlegu og audmjúku þakklæti. En nú fór svo, ad frú þessi, sem veitti honum velgjørdína, sáladist, og þá sýndist sem þessi veiki gamli madur væri aptur ordinn hjáparlaus í líkamlegu tilliti; en þá uppvakti Gud honum annan vin. Ungur gudhræddur madur, sem leingi hafdi borid fyrir þessum fróma og gamla manni stafa virdíngu og elsku, komst ad því, án þess þó ad heyra eitt einasta umkvørtunarord af munni sjálfs hans, ad hann hlyti ad vera í mjøg bágbornu ástandi; þessvegna tók hann sig, med ødrum vinum sínum, saman um, ad láta honum í té til lífsbjargar, á hverjum mánudi, hér um bil 8 gyllíni. Þegar hann nú grenslađist eptir hjá sjálfum honum hvort þetta nægdi honum, sagdi hinn gamli madur med þakklætistár í augunum, ad hann ekki vissi, hvad hann ætti ad gjora med svo mikla peninga; og sídar meir komst hans úngi vinur ad raun um, ad hann hafdi af þessum peningum styrkt þrenn fátæk hjón þar í grend; en sjálfur hélt hann sínum vanalega sparsama lífnadarmáta. Þad var og sídur hans, jafnardalega ad heimsækja fátæka og sjúka, og lét hann ætíd fylgja þeirri andlegu blessun, sem hann færdi þeim, dálitla peningagjøf; því hann vissi vel

af reynslunni, að þar sem stór fátækt er á ferðum, er lítil gjöf fátæku húsi þagkvæm blessun frá Drottni. Svoleiðis var þessi vor gamli vinur, þó hann í rauninni væri fárfátækur maður, sá er gjörði marga ríka. En þessu gat hann einúngis fyrir þá skuld til vegar komið, að hann, sín og annara vegna, sóttist fíkelldlega eptir eingu öðru enn því „sem þar uppi er, en ekki eptir því sem á jörðu er" (Kól. 3, 2). Hann hafði ætíð eitt stórt nauðsynjaverk fyrir sjónum, og einasta eitt augnamið, sem var það: „að gjöra Guð allrar náðar, sem hann kallað hafði til sinnar eilífu dýrðar í Jesú Kristi", að gjöra hann — segi eg — dýrðlegan, með allri sinni hegðun hér í lífi.

Þegar hann eitt sinn heyrði talað um það, að steinkol, (sem í Einglandi eru höfð til að kynda með ofna í húsum), væru mjög dýr orðin, svaraði hann með ánægjufullu brosi: „Fyrir mig eru steinkol nú með jafn léttu verði, sem fyrir 40 árum síðan." Og þetta var í raun og veru satt, því hann hafði aldrei í sínu litla húskorni getað aukið með þeim hlýindi, því þar var alls eingin ofn og eingar hlóðir. En eingu að síður talaði hann um þetta sitt litla hreisi, og um þær yndislegu stundir, er hann þar inni lifað hefði, með stærsta þakklæti til Guðs. Hans ánægða og rólega hjarta hafði í húskorni þessu notið margra hlunninda, sem einginn annar, er ekki hefði verið svo guðhræddur sem hann, hefði getað hlotið eður fundið til. Meðal annars talaði hann opt með stórri gleði um lítinn glugga, sem var á þaki húsins, því gegnum hann kvaðst hann opt á morgnana, og það í svo mörg ár, hafa, með glaðværu hjarta, getað virt fyrir sér þá fyrstu geisla þeirrar upprennandi sólar, og

stundum líka á kvöldin það blíða skin túnglsins, og hversu að glansi þessara himinljósa hefði — eins og menn segja — gyllt sængurstæði sitt, og hjúpað sérhvern hlut í húsinu með sínum fagra ljóma. Já! hefðu veggirnir í húskorni hans getað talað, hversu merkilegar sögur hefðu þeir þá getað sagt oss, um hann staklega hjartans hreinleika og brennandi bænir til Guðs, sem hjá þessum góða manni sífeldlega fundust. Það var siður hans, að safna öllu heimilisfólki í þorpi því, hvar hús hans var, saman, á hverju kvöldi áður enn til rekkju var geingið, hvar við og bættust nokkrir guðhræddir menn þar úr nágrenninu. Fyrir þessum litla söfnuði las þá þessi góði gamli maður fram, utanbókar, nokkrar greinir úr biblíunni, og bætti við hentugum áminningum, sem bæði voru mikið aðskildar og fullar af krapti; þar á eptir saung allur söfnuðurinn sálm, og svo endaði sá gamli maður þessa guðsþjónustugjörð með brennandi bæn til Guðs. Hiti sá og alvara, er hann framdi með þessa rólegu heimilisguðsþjónustu hafði hjá öllum nærstöddum kroptuga verkun, og var augljósasti vottur um krapt þess andlega lífs, er bió í sálu hans. Auk þessarar guðsþjónustu heima, vitjaði hann mjög kostgæfilega þeirrar opinberu guðsþjónustu í kirkjunni, og hélt sér lángt frá allri þrætu og stríði út af einstökum atriðum trúarbragðanna, sem þeim mönnum þó er mjög hætt við, sem framar öðrum hafa góða þekkíngu án þess að láta anda náðarinnar leiða sig til sannrar auðmýktar. En hann leitaði ekki eptir veru kristindómsins í nokkru einstöku útvortis formi, heldur í tilbeiðslu Guðs í anda og sannleika; og þessvegna var hann vanur opt að segja: „að þeir sannkristnu séu

ætíd sama sinnis, og hældi saman í kærleikanum, hvar helst sem þá sé ad finna." Eins og nú lifnadur þessa manns verid hafdi, svo vard og hans endalykt: hjartfólginn fridur í Gudi og stadfast traust til hans nádar í Jesú Kristi lýsti fram af øllu yfirbragdi hans andlitis, og af hérhverju ordi, sem hann taladi. Skømmu fyrir andlát hans, heimsókti hann sá vinur hans, er vér eigum fyrir søgu þessa ad þakka, og þad var í sídasta sinni. Hann hitti hann þá liggjandi í rekkju sinni, og bidandi sinnar burtfarar, med fúsustu undirgefni undir Guds vilja. Þegar hann nú gekk burtu frá honum, sagdi vinur hans til hans: ad hann vænti — þó ekki yrdi þad í þessu lífi — þá samt í því eptirkomanda lífi, ad fá ad sjá hann aptur; þá svaradi hinn, fullur af því hjartans trausti, sem sá madur hefur, er veit á hvern hann trúir: „já vísslega; vid munum í himnaríki aptur sjást!" Fullur af þessari gledilegu von í hjarta sínu, og med sælufullri tilfinningu þeirrar fullvissu, ad sér væru, fyrir Jesú Krists skuld, allar sínar syndir fyrirgefnar, gekk hann svo þ. 27. Maim. 1808 inn til sinnar eilífu hvíldar, þegar hann var 78 ára ad aldri. Vid jardarfør hans kom saman mesti mannfjøldi af øllum stéttum. Svo vel ædri sem lægri, nágrannar hans svo vel sem framandi sýndust allir vera eins hugar í því, ad veita þessum sanna Jesú lærisveini þá sídustu virdingu. En þó bar þar eitt vid, sem stærri heidur gjørdi þeirri lifandi, og fyrir kærleikann verkandi trú, sem búid hafdi í hjarta þessa fátæka manns, heldur enn ræda þess málsnjallasta mælskumanns hefdi getad gjørt; þad var nefnil. fátæk ekkja, sem menn sáu og heyrdu gráta hástøfum vid

hans grøf. Þegar menn nú spurdu hana eptir orsök-inni til þessarar hennar stóru hrygdar, gaf hún það andsvar: að hún um lángan tíma hefði frá þeim and-aða manni feingið, á viku hverri, gjöf nokkra, er hún og hennar hefdu lifað af, en nú hefði hún mist þennan sinn besta vin og velgjørdamann hér á jørdunni! Svo laung er nu frásaga þessi, af hverri þeir, sem hana lesa edur heyra, geta dregið marga nytsamlega og mikilvæga lærdóma:

1) Sést hér sá ómælanlegi ríkdómur Guðs náðar, og hversu óendanleg að gædska hans er. Hver skyldi hafa trúað, að þessi madur, Vilhjálmur Kelly, sem, medan hann var óumventur, hafði velt sér í synd-anna for og ledju, mundi þó loksins verda stakleg afbragðsfyrirmynd ráðvendni og guðhrædslu, og því-líkur einn, sem med fullum rétti má kallast „hinn sanni gæfumaður.“ Sé nú sá, sem søgu þessa les edar heyrir, þvílíkur léttúðarfullur syndari, sem reikandi á barmi eilífrar gløtunar, med ógudlegu lif-erni eydileggur heilsu sína, eignir, húsfélag og inn-vortis frid, og, med því að láta eptir øllum synd-samlegum lystingum hjarta síns, fjarlægir sig æ leingra og leingra burtu frá Gudi, þá verdur hann med þessari frásøgu upphvattur, að hann sem fyrst sjái að sér, og setji sér fyrir sjónir þann mann, sem, eins og sjálfur hann, leitaði daudans mitt í villu síns vegar, en vard þó, fyrir Guðs náð, uppvakinn og umvent-ur, svo að hann, mitt í því að hann í anda síns hugskots endurnýjaðist, vard sannarlegs fagnaðar og fridar hluttakandi, fyrir trúna á Drottinn Jesúm Krist; af þessu dæmi má hann þá læra það og sjá, að það er ekki øldúngis ómøgulegt — (þó torvelt sé, og of-

fáum takist það) — að fá fullkominn sigur yfir djúpt innrættum vanasyndum, svo sem drykkjuskap, blóti, léttúðarfullum lifnaði og fleiru, — en verða í þess stað bindindissamur, hreinlífur og ráðvandur í öllum hlutum.

En sá sem nú þetta vill verða, hann má þá ekki stundu leingur vanrækja að brúka þau réttu meðöl og aðferð þar til. Hann skal taka fyrir sig alvarlega og sífelda iðrunarbæn til almáttugs Guðs um fyrirgefningu synda sinna fyrir blóð og meðalgaungu Jesú Krists. Hann skal ydduglega lesa Guðs orð með allrastærstu athugasemi, samt trúlega nóta sér öll önnur meðöl náðarinnar, sem kristileg kirkja frambýður honum og í té lætur.

En hafir þú nú, kæri lesari! varðveitst frá slíkum stórsyndum, sem þú hefur séð að Vilhj. Kellý var fallinn í, þá þakkaðu Guði að vísu fyrir það, sem haldið hefur girndum hjarta þíns — að því leiti — í taumi; en grátbændu hann þó eingu að síður, að hann fyrir krapt síns anda og náðar virðist að endurnýja hjarta þitt. Því vita skaltú það, að svo framt þú ekki á líkan hátt sem Vilhjálmur Kellý verður endurnýaður, þá búa þær sömu syndir í þínum innra manni, hversu sem þín útvortis hegðan sýnist að vera regluleg. „Því út af hjartanu — segir Jesús, gættu að því! — fram koma vondir þánkar, morð, hórdómur, frillulífi, þjófnaður, falsvitni og lastanir." (Matth. 15, 19). En endurnýúng hjartans fyrir krapt heil. anda, sem hinum sannidrandi syndara, fyrir trúna á Jesúm Krist, verður gefin, og sem styrkir hann til að yfirgefa sína vondu vegi, og til að snúa sínu hjarta af allri alvöru til Drottins, hún er það, sem í heil. ritníngu er kölluð: „endurfæðing", og

án hennar er ølldúngis ómøgulegt, að maður fái „að sjá Guðs ríki,“ eins og Jesús segir. Joh. 3, 3.

2) Enn framar er það af lífsögu þessa gæfumanns berlega augljóst, hversu sú sanna þekking Guðs í Jesú Kristi er sú eina, sem megnar að veita sálu mannsins sanngrundvallaðan frið og ánægju, hvernig sem mannsins útvortis lífshagir vera kunna. Hver mundi hafa búist við að geta fundið einhvern þann farsælasta meðal manna í kuldu og vesælu þakhreisi, án þess að njóta þeirra nauðsýnlegustu hlunninda lífsins, án þess að hafa víni eður skildmenni sér til yndis og aðstoðar, já, án þess að hafa neinn þann fögnuð og dægrastyttingu, sem veröldin frambýður? Því þegar maður kom inn í hans vesæla húskofa, varð maður einkis annars var, en rúms þess, sem hann svaf í, eins stóls og eins borðs, og undir gluggganum einnar kistu, í hverri voru allar eigur hans, sem hann átti í heimi þessum, nefnilega hans sunnudagafatnaður, vesti og sokkar. Og þó lifði samt í þessu hreisi, sem flestum hefði mátt sýnast líkast vesælu fángelsi, einhver hinn glaðværasti og ánægðasti af flokki guðsbarna, því hann var þess sinnis, að leita einkis annars á jorðunni, enn innvortis samfélags við Guð og Frelsarann. Og þessa gæfu gat hann fundið og hennar notið nógsamlega, í þessu sínu einveruhúsi, og gat opt glatt sig þar „með óutsegjanlegum og dýrðlegum fögnuði.“

Biblían var sá óuppausanlegi brunnur, úr hverjum hann dró alla þá huggun, og allan þann lærdóm sem hann hafði; já þessi heilaga bók var hans dýrmætasti féssjóður, sem ekki var hulinn og ávartarlaus í þeim dauða bókstaf, heldur var fyrir Guðs anda lifandi orðinn í hans hjarta, eins og hann optlega, með orðum eins eingelsks sálmaskálds, útlistaði, segjandi: „djúpt í hjartans innstu æðum — er þitt orð, minn sjóður, geymt.“ Opt hafði hann mikið lítið að eta, en þá var honum það lifanda Guðs orð matur og drykkur fyrir líkama sem sálu, og hann hafði því aldrei skort, á neinum sönnum gæðum. O að þetta dæmi gæti upphvatt marga, sem þessa manns lífsögu

lesa kunna edur heyra, til ad leita réttilega eptir þessari somu sonnu lukku, med því ad lesa kostgæfilega Guds ord, einsog þessi lukkulegi kristni madur vanur var ad gjora, svo ad þeir, fyrir þad sama „verdi vísir til sáluhjálpar út af trúnni á Drottinn Jesúm Krist, já, ad þeir loksins verdi, sem fullkomnir gudsmenn, hæfilegir til allra gódra verka!" Einginn veit hvad sú sanna farsæld er, nema sá sem á þessa troppu komst, og sá fátæki, sem þad komst, hann er sælli, enn þó ad hann ætti oll riki veraldarinnar og þeirra dýrd!

## Bæn hins fátæka.

Fadir! heyr mína bljúgu bón,
birtast lát minni trúarsjón
auglit þitt, eg sem þreyi.
Æ, sýndu nád og miskun mér;
á medan dvalid fæ eg hér,
Gud! yfirgef mig eigi.

Þú sem hrafns únga metta mátt,
mér til lífsbjargar nægdir átt,
þú veitst nær þorfin krefur;
því vil eg hafa þolugt ged,
þó ad mig reynir fátækt med,
sem þú mér senda hefur.

Allri því kasta eg svo vil,
enn í dag, sem ad morgni til,
áhyggju á þig minni;
þú sem ad léntir lífid mér,
leggja munt vilja til þess hér
uppheldi sérhvert sinni.

Einasta bid eg þig um þad,
þad láttu verda innskrifad
fast þinu fodurhjarta,
fyrirgef syndir margar mín,
mér þína nád og gædsku sýn,
um annad ei eg kvarta.

Minnar æ sálu minnstu nú,
að mig af náð þinni seðjir þú
lifanda lífins brauði,
sem er eingetinn sonur þinn;
sá er frelsari og hirðir minn,
hvort lénast líf eður dauði!

## Minnisgreinir úr ritníngunni fyrir fátæka.

Varpa áhyggju þinni upp á Drottinn, hann mun forsorga þig, og ekki láta hann réttláta eilíflega óró líða, segir Davíð, sálm. 55, 23.

Fel Drottni þína vegu, og vona á hann, hann mun því vel til vegar koma. Sálm. 37, 5.

Eg hefi verið úngur, og er gamall orðinn (segir Davíð) og hefi eg aldrei séð þann réttláta yfirgefinn, eður hans niðja fara á vonarvöl. Sálm. 37, 25.

Leitið fyrst guðsríkis og hans réttlætis, svo mun yður allt annað tilleggjast, segir Jesús, Matth. 6, 33.

Verið ekki hugsjúkir, heldur látið í öllum hlutum yðar bænir koma fram fyrir Guð með sárbeiðni og þakkargjörð, segir Páll postuli, Filipp. 4, 6.

Guðhræðslan er til allra hluta nytsamleg, og hún hefur fyrirheit þessa lífs og hins ókomna, segir hann, 1 Tím. 4, 8.

Það er stór ávinníngur, (segir sami guðsmaður), að vera guðrækinn og láta sér nægja, því vér höfum ekkert inn í veröldina flutt; því er opinbert, að vér munum ekkert heldur héðan burtu bera. En þegar vér höfum klæði og fæði, þá látum oss nægja. 1 Tím. 6, 6—8.

Kaupmannahöfn 1853. Prentað hjá S. L. Möller.